


III. Winnipeg, Man. Nr. 6.

# *Gildi Gamlatestamentisins.*

(Athugasemdir við 'Aldamót' 1893.)



Framhald.

Alt til þessa hefir það, sem séra Fr. hefir sagt um gildi gamla testamentisins verið nokkurs konar forspil að því, er hann ætlaði að segja, en nú, á bls. 20, fer hann fyrst að snúa sér að efninu.

Hann segir fyrst, að mótstöðumenn sínir vilji taka frá sér guðs orð. En það er tilhæfulaust. Þau orð, sem eru guðs orð, kemur oss ekki til hugar að taka frá honum eða hans mönnum, og ekki heldur kemur oss til hugar að neita því, að til sé orð, sem megi kalla guðs orð. Ef að vér getum tekið frá honum, tætt í sundur, gjört að bulli og endileysu þessi orð, sem hann telur guðs orð, þá er það einmitt sönnun fyrir því, að það hefir aldrei guðs orð verið. Guðsorð hlýtur að hafa svo mikinn sannleikskraft í sér fólginn, að ekkert mannlegt vit megni að hrekja það. Ef það er ekki, þá er það ekki guðs orð.

Svo kemur hann fram með undirstöðuatriði þau, sem hann ætlar að byggja á. Fyrst segir hann, að biblían sé innblásin af guði. Orð hans eru þessi: "Vér segjum, að biblían sé innblásin af guði, og meinum með því, að drottinn hafi opinberað hinum helgu höfundum ráð sitt mönnunum til sáluhjálpar, — að það, sem oss er nauðsynlegt að vita oss til sáluhjálpar, sé þar framsett eftir sérlegri

tilhlutun drottins og með aðstoð hans anda......" En svo segir hann rétt á eftir, "Vér staðhæfum ekki, að biblían sé guðdómlega fullkomin bók.........."

Undirstaðan, sem hann byggir á, er þá sú, að biblían sé innblásin af guði, en ekki guðdómlega fullkomin. Er þetta ekki merkilegt, að maður, sem þykist vera mentaður, skuli koma með annað eins? Hann byggir á ófullkomnum innblæstri, eða með öðrum orðum, á því, sem efi er á hvort satt er eða ekki.

Annaðhvort er innblásturinn guðdómlega fullkominn, eða hann er það ekkí; ef að hann er guðdómlega fullkominn, þá er hann sannur og óhætt að byggja á honum, en sé hann ófullkominn, þá er hann meira eða minna ósannur, rangur, óáreiðanlegur, vitlaus. Kannske að presturinn vilji byggja sannindi trúar sinnar á guðdómlega vitlausum innblæstri? Var það meiningin? Þá held ég að menn ættu samt að setja upp, öllu fremur en taka ofan. Það sem í þessari tvöföldu játningu felst, er það, að fyrri játning hans, þar sem hann segir, að biblían sé innblásin af guði, hún er lútersk, rétttrúuð, það er kyrkjunnar játning, — en seinni játningin, að biblían sé ekki guðdómlega fullkomin, er unitarisk. Vér staðhæfum það allir unitarar, að biblían sé ekki guðdómlega fullkomin, og einmitt þess vegna getum vér ekki bygt trú vora á henni einni, fremur en öðrum ritverkum. Þarna kemur nú fram grundvöllurinn, sem séra Friðrik ætlar sér að standa á. Annar endi hellunnar er rétttrúaður, þar ætlar klerkur sér að standa, þegar hinn unitariski endinn er ofheitur; hinn endinn er unitariskur, þar ætlar hann sér að standa þegar rétttrúnaðarendinn er of heitur. Með öðrum orðum, hann þarf að hafa hami tvo, svo að hann geti varpað af sér og steypt yfir sig kuflunum eftir því sem við á. Sem hreinum unitara réttum vér honum bróðurlega hönd og bjóðum hann velkominn. En vér viljum engan hræsnis-tvískinnung hafa í þessum málum.

Það skal verða sýnt hér á eftir, að hann hefir haft fulla ástæðu til þessa, því að í sönnunum sínum fyrir innblæstri ritningarinnar kemur hann stundum fram sem "rétttrúaður" en stundum sem unitari.

Hann tekur þetta enn þá skýrara fram á bls. 22, er hann segir: "Með þessu er *enginn* bókstaflegur innblástur ritningarinnar kendur," og svo segir hann, að biblían sé "að öllu leyti áreiðanlegur leiðarvísir fyrir menn í trúarefnum." Hann er búinn að segja, að hún sé ófullkomin, og þó sé hún áreiðanleg!

Ég veit vel, um hvaða smugu þeir ætla sér að skríða, þegar krept verður að þeim. Þeir ætla sér að segja, og segja það að vissu leyti hér, að þegar um sáluhjálp mannsins sé að ræða, þá sé ritningin áreiðanleg ; en þegar um önnur efni sé að ræða, þá sé hún óáreiðanleg.— En þegar menn nú sjá það, og séra Friðrik neitar því ekki, að þessir hinir "heilögu menn, uppfyltir af guðs anda," sem biblíuna hafa skrifað, fara stundum með ósannindi eða vitleysur, hvernig getum vér þá treyst því, að sumt hjá þeim sé guðdómlega satt og rétt ? Ef ég hitti mann sem skrökvar að mér, ef til vill hvað eftir annað, þá fer ég að verða varasamur að trúa honum, og ég trúi honum alls ekki upp á hans eigin orð.

En nú skulum vér skoða það, að guð innblási mönnum heilagan sannleika, þegar um sáluhjálp þeirra er að ræða, en innblási þeim ósannindi, eða leyfi þeim að skrökva, þegar um önnur málefni, t. d. söguleg, eða líkamleg, eða tímanleg málefni er að ræða. Hvernig lítur það nú út þetta ? Mér líst ekki á það, og ég held að engum lítist á það, sem hefir skynsemi til að hugsa út í það og er heiðarlegur maður. Ef að menn hugsa sér guð sem heiðarlega persónu, fylling hins góða, fylling réttlætisins, þá hljóta menn að forkasta þessu. Menn hljóta að álíta, að orð hans sé jafn satt og áreiðanlegt, um hvað sem hann talar. Í bók, sem guð hefir látið skrifa handa börnum sínum, er óhugsandi að hann fari að segja ósatt. Guð hlyti að sjá það undir eins, að ef að menn rækju sig á eitthvað ósatt hjá honum, þá færi menn að gruna fleira. Mér er ómögulegt að hugsa mér guð þann fáráðling, að honum kæmi þetta ekki til hugar, það liggur svo í augum uppi.

En nú er komið út í aðalefnið ; nú fer höfundur fyrirlestursins að hrekja vantrúna. Fyrst tekur hann orðatiltækin, sem tala um guðs "fingur," "hönd," "augu og eyru," og segir að það sé engin meining í því að taka þetta bókstaflega. Hér sé talað í líkingarfullum orðum um guð að sið austurlandaþjóða. Öldungis rétt, vér erum séra Fr. hjartanlega samþykkir. Þetta er einmitt það, sem vér segjum unitarar. Séra Fr. er hér hreinasti unitari. En menn verða að gæta þess, að með því að samþykkja setningar og framburð unitara, hrekur hann þá ekki, heldur einmitt styrkir þeirra málstað. En hér er ómögulegt að hrekja, og þess vegna kom það sér svo vel, að geta skotist yfir á unitariska endann undirstöðuhellunnar. Hér réttum vér unitarar séra Fr. báðar hendur og þökkum honum fyrir. Svona heldur svo höf. áfram að hrekja vantrúna. Hann tekur hvert atriðið á fætur öðru, sem vantrúarmeun hneykslast á, og samsinnir

það. Næst er það, sem Esajas spámaður segir: "Svo segir drottinn himininn er mitt hásæti og jörðin mín fótskör." Þetta segir hann, að ekki hafi komið neinum Ísraelsmanni í hug að skilja bókstaflega. Vér unitarar erum alveg sömu skoðunar. Vér höfum aldrei hugsað að guð hefði líkama, til þess að smella sér niður á hásætisstól hvorki á himni né jörðu.

Svo tekur séra Fr. orðatiltækin: "að guð reiðist og iðrist," og segir, að menn þoli það ekki. Honum er alveg eins og oss illa við, að guð skuli reiðast, en svo fer hann að lappa það með því, að reiðin sé vanþóknun og viðbjóður heilagleikans við syndinni. Vér trúum því alveg eins og séra Fr., að heilagleikann bjóði við syndinni. En þegar talað er um að einhver reiðist, þá sér hver heilvita maður, að talað er um breyting á hugarfari þess manns eða þessarar persónu. Hann getur ekki reiðst, nema hann hafi verið óreiður áður. Og svo segir séra Fr. "að guð reiðist daglega." En nú hefir það verið, og er enn, trú kyrkjunnar, að tilfinningar guðdómsins séu sterkar, miklu sterkari en hjá manninum. Hann er t. d. fylling kærleikans, eða hinn sterkasti kærleikur. Ef að nú reiði hans á að vera tiltölulega eins sterk eins og kærleikurinn, sem Vídalín gamli svo víða og hugsunarrétt hefir framsett, ja, þá kenni ég í brjósti um guð, því að reiðast ákafiega á hverjum einasta degi, það er ekki spaug.

Svo talar hann um iðran guðs, og segir, að ráðsályktanir guðs séu engan vegin á reiki, þær séu óumbreytanlegar. Eftir því er það engin breyting á eðli guðs, þótt hann iðrist, en til að sanna það, segir séra Fr., "að hann breyti til við mennina eftir því sem þeir breytast gagnvart honum." Mikið ljómandi sönnun. Að sanna það að guð breytist ekki, með því að segja, að hann breytist!! — Enda vorkenni ég séra Fr. hér, því að það er ekki mögulegt, að fá annað út úr orðinu: að iðrast, en það, að sá sem iðrast, hann sér eftir einhverju, sem hann er búinn að gjöra. En það bendir aftur á það, að hann hafi farið eitthvað ráðlauslega að í fyrstu.

Þá fer hann að tala um það, er guð fór að leita að Adam í aldingarðinum Eden. Höfundi fyrirlestursins þykir þetta hálf bjánalegt, og telur það því ekki innblásið af guðsanda. Þar erum vér honum alveg samdóma. En svo segir séra Fr., "að svarið, sem Móeses lætur Adam gefa, sýni ljóslega, að Móeses vissi, að drottins alskygna auga hvíldi á Adam, þar sem hann duldist í fylgsni sínu." En þetta er ekki rétt ályktað. Svarið, sem Adam gefur, er þetta: "Ég heyrði þína rödd í aldingarðinum og varð hræddur, því ég er nak-

inn, og faldi mig.“ Þegar Adam verður hræddur, þá hugsar hann sem svo: já, nú skal ég fela mig svo guð sjái mig ekki, því að ef hann sér mig, að ég er nakinn, þá skammar hann mig. — Svarið Adams sýnir einmitt, að hann hélt að guð sæi sig ekki, ef að hann feldi sig, en hræðslan varð yfirsterkari, svo að hann kom fram úr fylgsni sínu, og varð að taka á móti sneypunni. Þetta hneyksli vantrúarinnar segir séra Fr. að slái sjálft sig á munninn, en ég held að það verði öfugt.

Þá fer nú séra Friðrik að verja breytni guðs. Hann segir, að vér höldum því fram, „að biblían lýsi guði eins og óvönduðum manni, að hún segi ýmislegt um hann, er vér mundum skammast oss fyrir að segja um meðbræður vora, nema vér hefðum leyfi til þess að bæta því við, að þeir væru mestu bófar.“ Sem dæmi upp á þetta er það tekið fram, að guð hafi skipað Ísraelsmönnum á Egyptalandi, fyrst að ljúga og síðan að stela.

Séra Fr. ætlar nú að fara að reyna að réttlæta þetta. En til þess að svara honum, þarf ekkert annað en að taka sjálfa bibliuua.

Í 2. bók Mós., 3. kap., 18. v., stendur, þar sem guð er að leggja niður fyrir Móses, með hvaða brögðum hann skuli losast frá Faraó Egyptalands: „Þú skalt segja til hans: drottinn, guð ebreskra manna hefir birst oss, fyrir því leyf oss nú að fara þrjár dagleiðir á eyðimörk, að vér færum fórnir drottni guði vorum.“ En nú sjá allir, sem sjá vilja, að Gyðingar ætluðu sér ekki út á eyðimörku til þess, að færa fórnir, heldur ætluðu þeir sér burtu að fara og koma aldrei aftur, og þá var þetta að ljúga. Það er ómögulegt að verja það.

Alveg eins er því varið með lántökurnar. Þeir ætluðu sér aldrei að skila því aftur, og því var það alveg sama og þjófnaður. En séra Fr. vill snúa því dálítið við hér, og segir að þýðingin hafi ekki verið rétt (eins og guðs orð geti nokkurn tíma verið rang-þýtt!) og segir, að guð hafi sagt Gyðingum, að biðja Egyfta um gjafir. Í fljótu bragði lítur það dálítið skár út, en það sýnir þó alveg hina sömu siðferðisspillingu. Eins og það séu nokkur líkindi til þess, að Egyftar hafi af fúsum vilja farið að gefa þrælum sínum, sem struku frá þeim, að Egyftum óviljandi, og það eftír að Gyðingar voru búnir að senda þeim hverja pláguna annari verri, eyðileggja allan bjargarforða þeirra á ökrunum, fyrst með hagli og síðan með engisprettum, og svo drepa alla frumburði þeirra, frumburði skepnanna og mannanna, elsta barnið á hverju heimili. Hvað var barnadráp Heródesar á móti þessu? Nei, þótt Íslendingar séu auðtrúa, þá trúa

þeir því þó ekki, að Egyftar hafi af fúsum vilja farið að gefa þeim gjafir. Og ef að klerkar hinnar "rétttrúuðu" kyrkju kalla þetta gott siðferði, að það sé rétt, að hafa fé með þessu móti út úr mönnum, hvort heldur það er kallað með láni eða gjöfum, þá er sannarlega mál komið, að menn fari að vara sig á þeim og kenningum þeirra. En svona hefir kyrkjan stundum haft það. Séra Friðrik heldur því fram, að af því að Gyðingar hafi unnið þrælavinnu hjá Egyftum, þá hafi þeir átt þetta hjá þeim. En, þá kemur önnur spurning: skyldu þá ekki þrælarnir, sem Gyðingar seinna sjálfir héldu, að boði guðs, — skyldu þeir ekki hafa haft fjárkröfu á hendur Gyðingum?

Því næst reynir séra Friðrik að verja það, þegar andinn fékk leyfi hjá guði til þess, að vera lygaandi í munni spámanna Akabs. Hér stendur séra Fr. gjörsamlega á "rétttrrúnaðar"-enda hellunnar, þar sem hann viðurkennir- að þessi lyga-andi sé Satan sjálfur, viðurkennir, að Satan hafi fengið leyfi hjá guði til að fara í spámennina. En honum skjátlast nú fyrst og fremst í því, að þar sem ritningin talar um þetta, bæði í 2. Kron., 18. kap., og 1. Konungab., 22. kap., þá er hvergi sagt að þetta hafi Satan verið, heldur andi. Séra Fr. hefir ekkert á móti því, að guð sendi lyga-anda í munn spámannanna. Hér biður andinn guð um leyfi til þess að fara, og þegar guð leyfir honum það, þá er það í rauninni hið sama og hann sendi hann. En hér er það athugandi, að þó að séra Fr. hafi verið unitariskur stundum í þessum fyrirlestri sínum, og neitað bókstaflegum innblæstri biblíunnar, þá snýr hann nú við og verður rammasti rétttrúnaðarmaður. Hann viðurkennir djöfulinn og þá náttúrlega um leið hans ríki. En einnig er það einkennilegt, að einmitt í sömu andránni og hann viðurkennir, að guð hafi sent lyga-anda af himni, eða leyft þeim að fara, til þess að freista spámannanna til að ljúga, þá, til sönnunar sínu máli, minnir hann oss á Jakob postula 1., 13.: "Guð freistar einskis manns." Hugsunin hjá höf. tekur sig út svona: guð sendir lygaanda í munn spámannanna, og það hlýtur að vera satt, því að biblían segir það, og svo var það rétt, að ljúga að Akab —þessu trúi ég hátíðlega; en það er samt ómögulegt, því að guð freistar einskis manns. En svo má aftur hrinda því, að guð freisti einskis, fyrst með þessu um lyga andann, og svo segir í 2. bók Móesesar, 14. kap., 4. v.,: "ég vil forherða hjarta Faraós, svo hann skal veita þeim eftirför." Það var guð, sem sagðist vilja forherða hjarta Faraós, eða freista hans, svo að hann elti Ísraelsmenn. Hver var það annar en guð, sem leyfði djöflinum að freista Jesú? Var það

ekki guð, sem kom Davíð til að telja fólkið, og svo í hegningarskyni fyrir að Davíð taldi, deyddi guð 70 þúsundir manna. Og síðast af öllu kennir Jesús lærisveinum sínum, meðal annars, (í "Faðir vor"), að biðja guð að freista sín ekki. (Meira næst.)



# *Unitarismus.*

## Stutt ágrip af hinni unitarisku sögu.

---

Framhald.

Í Bandaríkjum byrjaði unitarismus í Nýja-Englandsríkjunum, og er þar enn sterkastur, en hefir á seinni tíð breiðst út um öll vesturríkin. Sögu trúar þessarar í Bandaríkjunum má skifta í fjóra kafla. Er fyrst myndunartíminn. Hefst hann með sögu ríkjanna og nær alt niður að 1819; þá fyrst mynduðu unitarar verulega sérstakan flokk.

Aðalatburðurinn á tímabili þessu, var "hreifingin mikla," og fremstur í flokki hinna frjálslyndu var Charles Chauncy, prestur hinnar "Fyrstu kyrkju" í Boston. Hreifingin, sem kölluð var "hin mikla," breytti hinum gömlu reglum um inntöku í kyrkjufélagið. Áður hafði hver maður, sem í félagið vildi ganga, orðið að snúast og taka sinnaskiftum, en nú voru þeir teknir inn, sem skírðir höfðu verið í bernsku, neituðu ekki kenningunum, og lifðu ólastanlegu lífi. En ekki fengu þeir að vera til altaris, og var því breyting þessi oft kölluð: "hálfgildings samþykt." Afleiðingin af þessu varð sú, að smátt og smátt fór Calvinstrúin að minka hjá leikmönnum og lærðum, og jukust þá jafnóðum frjálslyndar skoðanir í Nýja-Englandsríkjunum. Þá var það, að Jónathan Edwards kom af stað trúarhreyfingu mikilli í Northampton, 1735, til þess að vinna á móti stefnu þessari. Sú hreyfing var hafin aftur árið 1740 af hinum nafnfræga methodistapresti Whitefield, af Gilbert Tennent í New Jersey, og öðrum fleirum. Þetta setti alla söfnuðina í mikla hreyfingu, og gengu menn hópum saman í söfnuðina. Menn neyddust til þess, að skifta sér í tvo flokka og hallast að öðrum hvorum, og þegar átti að fara að lífga við að nýju kenningar Calvins, eins og þeir gerðu Whitefield og aðrir, þá fóru menn fyrst að veita því eftirtekt hve óþýðar þessar kenningar voru. Á fundahöldum hinna rétttrú-

uðu manna, eða þessum "revival meetings," höfðu þeir þau óskapa læti, að ýmsum þótti úr hófi keyra, og klerkar þeirra og trúboðar urðu stundum full nærgöngulir mönnum og prívatmálum þeirra, svo að mótspyrnan móti þeim fór sívaxandi, einkum hjá mönnum af betri stéttum og þeim, er mentaðir voru, og smátt og smátt urðu kyrkjurnar frjálsari og héldu meira og meira fram unitariskri stefnu. En þá var enginn söfnuður verulega unitariskur, þó að margir væru á leið til að verða það. En hinn fyrsti prestur, sem að menn vita af að hafi verið unitariskur, í Ameríku, er Ebenezer Gay frá Hingham, 1695—1787. Hinn fyrsti prestur í Ameríku, sem opinberaði efa sinn um þrenninguna, var Jónathan Mayhew frá Boston, og gerði hann athugasemd við ræðu prentaða eftir sig árið 1755, og skýrði frá skoðunum sínum. Hin fyrsta kyrkja í álfunni, sem opinberlega varð únitarisk, var Kings Chapel (úr biskupakyrkjunni), árið 1787; var það orðið ljóst fyrir söfnuði þeim, að hinn nýi prestur þeirra, James Freeman, væri unitari, og samþykti söfnuðurinn það á almennum fundi, að stryka skyldi úr bænabók þeirra öll þau orðtæki, er stríddu á móti unitaratrú.

Hinar nýju kenningar dreifðust fljótlega út, en voru þó ekki kendar opinberlega. Ástæðan fyrir því var sú, að "hinir frjálslyndu" voru ekki fyllilega búnir að átta sig, þeim stóð stuggur af öllum deilum, þeir álitu trúarsetningarnar, sem deilan var um, ekki eins mikils virði og mótstöðumenn þeirra, og þeir kynokuðu sér við því, að slíta sig út úr hinu gamla kyrkjufélagi, og svo það, að þeim féll illa að láta kalla sig unitara, nafni, sem flokkur einn á Englandi bar, er í sumu hafði þeim frábrugðnar skoðanir. Þeir lögðu því mesta áherslu á kristilegt líferni, en sleptu að kenna nokkuð um trúarskoðanir þær, er þeir gátu ekki fallist á.

Þegar Henry Ware, hinn yngri, varð prófessor í guðfræði við Harward háskóla, þá varð æsing mikil með mönnum, því að þá sáu menn, að hin nýja trúmálastefna var ráðandi orðin á skólanum. Loksins varð það ljóst foringjum únitaraflokksins, að þögnin hefði meira ilt í för með sér, en deilan; og árið 1819 flutti William Ellery Channing, prestur í Boston, ræðu eina við prestsvígslu í Baltimore, og í ræðu þeirri skýrði hann frá skoðunum unitara og varði trú þeirra.

Þá kom aðskilnaðurinn, frá 1819—1841, þegar Parker-deilan hófst. Á tímabili þessu var Channing foringi flokksins, einhver göfugasti og ágætasti maður, mentaður ágætlega, gáfaður og góður drengur. Þegar hann hafði kveðið upp úr í ræðu þessari, sem að

framan er getið, þá fór alt á skrið, þá fóru prestar og söfnuðir um alt Nýja England að lýsa yfir trú sinni; og brátt sást það, að nálægt 125 kyrkjur voru unítariskar, og voru flestar þeirra einmitt elstu og öflugustu kyrkjurnar í Congregationalista trúarfélaginu. Þegar söfnuðir þessir voru að klofna, þá komu oft upp deilur um það, hvor flokkurinn skyldi eignirnar hafa, sá, er héldi við gömlu kenningarnar, eða sá, er fylgdi hinum nýju, eða með öðrum orðum, hvort eignirnar væru eignir kyrkjufélagsins gamla, eða safnaðanna. Var mál hafið um þetta, hið svokallaða Denham-mál, og dæmt söfnuðinum, en ekki kyrkjufélaginu, í vil. Þannig hófst unitarafélagið í Ameríku.

Í borgaralegum, politiskum og mentalegum málum, hafði þessi hinn nýi flokkur tiltölulega miklu meiri áhrif, en líklegt var eftir mannfjölda. Enda voru flestöll skáld þeirra tíma, sagnfræðingar, stjórnmálafræðingar og lögmenn af þeim flokki. Prestar þeirra voru lærðir vel; alþýðan mentuð, siðferðisgóð og full mannkærleika. En sökum þess, að þeim stóð stuggur af deilum öllum og vildu helzt láta hvern mann sjálfráðan, þá varð þó útbreiðslan minni en mátt hefði vera. Var hið fyrsta unitariska félag, "American Unitarian Association," stofnað 1825, en dauflega var það stutt í fyrstu.

En nú kemur nýtt atriði í sögu unitara. Hingað til hafði alt gengið svo rólega og friðsamlega, sem menn gátu búist við, en úr þessu fór að ókyrrast nokkuð. Fór nú að bera á stefnu þeirri, er "transcendentalism" nefnist. Er það skoðun sú, að sál mannsins af sjálfu sér geti fundið og öðlast sannleikann, án nokkurrar yfirnáttúrlegrar hjálpar, svo sem guðdómlegs innblásturs eða verkunar heilags anda. Eftir því sem þessi skoðun varð mönnum ljósari og ljósari, fór unitarismus að bylta um koll ýmsu af því hinu gamla, er menn þegjandi höfðu tekið við frá forfeðrum sínum. Alt til þessa höfðu menn bygt unitaratrú á ritningunni, en nú fóru menn að sjá, að það gat ekki gengið lengur, og um leið sáu menn betur og betur, hvaða þýðingu unitaratrúin hafði. Menn voru búnir að halda svo lengi í biblíusetningar, guðdómlegan innblástur og trúarsetningar, sem menn gátu; og nú fundu menn, að þessar stoðir voru fallnar, og um leið sáu þeir, að unitarastefnan var baráttan fyrir skynseminni og samviskunni, að það eitt gat staðið í "hinum helgu bókum," sem skynseminni var samkvæmt og gladdi samviskuna. Foringjarnir í deilum þessum voru þeir Ralph Waldo Emerson og Theodore Parker. Smámsaman dróg þó úr deilunni, og fóru menn að skilja hvorir aðra betur.

Úr því fór fyrst að komast verulegt skipulag á hina unitarisku

hreyfingu. Ýms félög mynduðust til útbreiðslu og eflingar unitaratrúar, svo sem "National Conference" og "Local Conference," undir forustu Dr. Henry Bellows, 1865. Svo kom upp kvennfélag unitara: "Women's Alliace," "Church Building Loan Fund," "Unity Clubs," "Unitarian Clubs," og fleiri. Kyrkjurnar hafa margfaldast, og nú er unitaratrú boðuð hér og þar um alla Norður-Ameríku. Vöxturinn hefir verið hægur, sumpart af því, að gömlu kyrkjurnar hafa smádregið úr hinum svörtustu kenningum sínum, og heldur slakað til. Hefði mótstaðan verið harðari, þá hefði vöxturinn eflaust orðið meiri. En einlægt fer þó unitaratrú sívaxandi, einkum í vesturfylkjunum og á Kyrrahafsströndinni, en í gömlu fylkjunum eystra styrkjast söfnuðirnir óðum, þótt ekki fjölgi þeir eins mikið og vestra.

Arið 1891 voru í Ameríku 424 kyrkjur og 459 prestar, 24 "Local Conferences," en "National Alliance of Unitarian and other Liberal Christian Women," hefir 75 deildir. Hinir helstu guðfræðisskólar unitara eru annar í Meadwille, Pa., en hinn er "The Divinity School of Harvard University," og nú er í ráði að stofna einn háskóla á Kyrrahafsströndinni. Hin helstu blöð þeirra eru: "The Christian Register," í Boston, og "Unity," í Chicago, bæði vikublöð; "Every Other Sunday," í Boston, hálfsmánaðarblað, og "Unitarian" og "Unitarian Review," bæði mánaðarblöð, í Boston, auk annara smærri blaða. Á Englandi eru 273 unitara kyrkjur, á Írlandi 41, í Wales 31, í Skotlandi 10, í Australíu 3. Þrír unitariskir guðfræðisskólar eru á Bretlandi, hinn helsti í Oxford á Englandi. Helstu unitarablöð þar eru: "The Christian Life," "The Unitarian Herald" og "The Christian Reformer."

Á Ungaralandi hafa unitarar 165 kyrkjur með 107 prestum; er þar biskup og 8 prófastar, en á kyrkjuþingi þeirra hafa sæti 350 fulltrúar.

Þá eru og unitarar í þúsundatali í Austurríki, Þýzkalandi, Hollandi, Frakklandi, Svíþjóð og Svisslandi.

Síðan 1891 hefir unitörum fjölgað ákaflega mikið, einkum í vesturríkjunum og Kyrrahafsströndinni, jafnvel breiðst út til Japan og Kína. Er nýlega stofnaður únitariskur prestaskóli í Japan, og má segja, að Japanar taki trú þessari báðum höndum.

Þá er að minnast með fám orðum á stjórnarfyrirkomulag unitara. Er því hagað líkt og hjá Congregationalistum. Þeir hafa safnaðastjórn; hefir hver söfnuður rétt til þess, að skipa málum sínum sem honum best líkar. Aðalfélag unitara er "The American Unitarian Association." Getur hver gengið í félag það, sem vill, og

verið félagslimur alla æfi, móti því að hann leggi fram $50 í eitt skifti fyrir öll. Félagar eru og fulltrúar kyrkna þeirra, er lagt hafa í félagssjóð í tvö ár samfleytt. Félag þetta á að halda uppi trúboði; hefir það varið alt að $100,000 á ári til þess, að styrkja fátæka og nýja söfnuði, og fer það tillag óðum vaxandi.

(Niðurlag næst).



# *Kristinn.*

Í hörmungaræðu þeirri, sem hinn heiðraði varaforseti hins "evangeliska lúterska kristilega kyrkjuþings Islendinga í Vesturheimi" flutti nýlega á kyrkjuþingi þeirra í Pembina, kemst hann svo að orði, að "unitarar geti ekki kristnir heitið." Það kann nú að vera, að mörgum finnist ekki svo mikið um þetta; en ef að menn gæta að því, hvernig hugsunarháttur manna hefir verið alt til þessa, þá liggur meira í því, en í fyrstu sýnist. Íslendingar hafa verið svo ákaflega vel kristnir yfir höfuð; kristnin hefir verið svo rótgróin í eðli þeirra, að þeir hafa oftlega ekki einungis haft ýmigust, heldur viðbjóð og hrylling og hatur á öllum þeim, sem ekki eru sömu skoðunar, sérstaklega á þeim, sem efuðust um, eða vefengdu guðdóm Krists, eða endurlausn hans. Þeir hafa álitið þá varga í véum, óalandi, óferjandi, óráðandi öllum bjargráðum. Þeir hafa kallað þá, og kalla þá enn, guðleysingja, og segja, að þeir hæðist að guði, afneiti honum, svívirði hann í persónu Krists, sem þeir steypi úr hásæti himnanna. Þessir menn, sem þannig óvirði Krist, séu því afhrak mannlegs félags.

Sökum þessa getum vér ekki leitt hjá oss, að fara fáum orðum um þennan sleggjudóm séra Friðriks. Oss þykir hann bæði sjálfbyrgingslegur og svæsinn.

Hvernig getur hann, eða nokkur annar, neitað oss um það, að vér séum kristnir, þótt vér séum ekki kristnir á sama hátt og hann? Vér tökum oss Krist til fyrirmyndar sem góðann mann, og viljum fylgja kenningum hans, breyta eftir dæmi hans; hann er því andlegur leiðtogi vor, og sem flokksmenn hans köllum vér oss kristna. Hann er foringi vor og vér fylgjum honum; hver getur þá neitað oss um nafn hans? Þeir sjálfir hafa enga minstu ástæðu til þess, að

kalla sig kristnari en vér. Ég veit það vel, að þeir segjast vera kristnari fyrir það, að þeir trúi á guðdóm Krists, þeir trúi því, að hann hafi afplánað syndir manna á krossinum, en þessu trúum vér unitarar ekki. En vér höfum oftlega sýnt fram á það, að þetta er hégilja ein og bull. Kristur kendi aldrei, að hann væri guð; guðspjöllin kenna einmitt, að hann sé það ekki. Endurlausnarkenningin er heiðin fórnarkenning og Kristur kendi hana aldrei. Þeir hafa verið svo marghraktir í þessu tilliti, lútersku prestarnir, að það eru að eins hinir allra einföldustu af kyrkjumönnum þeirra, sem trúa þessu, nú orðið. Vér erum einmitt kristnari en þeir, með því að neita því, að þetta hafi verið kenningar Krists, þessa góða spakvitra manns. Og vér göngum lengra en þetta, vér neitum ýmsu um Krist, sem oss finst niðurlægjandi fyrir hann, honum til ósóma og vanvirðu, en sem þeir trúa sem öðrum sáluhjálparatriðum. Ég skal taka t. d.: Vér neitum því, að hann hafi verið svo einfaldur, að trúa því, að eldi og brennisteini hafi rignt af himni ofan og eyðilagt Sódóma og Gómorrha, eða að kona Lots hafi orðið að saltstólpa (Lúk. 17. kap., 29.—32. v.). Vér neitum því, að Kristur hafi verið svo einfaldur, að trúa því, að Jónas hafi verið 3 daga og 3 nætur í hvalsmaga (sjá Matth. 12., 40.) Þetta segjum vér ranghermt af postulunum. Vér neitum því og, að Kristur hafi ekki verið vandaðri en svo, að hleypa djöflunum í svínahjörðina og eyðileggja 2000 svín fyrir saklausum mönnum (Lúk. 8.). Vér neitum því og, að hann hafi ekki verið kærleiksmeiri en svo, að hann hafi farið að gjöra sér upp orðin, er hann mundi dæma alla menn, á þessa leið: "Þá mun mannsins sonur segja: Farið frá mér bölvaðir í þann eilífa eld, sem búinn er djöflunum og hans árum." Þetta og annað eins segjum vér, að sé ranghermi; vér ætlum Krist betri en svo, að hann hafi nokkurn tíma sagt þetta. Og þá er það því verra, sem þeir gjöra það, sem einir þykjast kristnir vera, að tileinka þetta guði; því að þeir segja, að þessi maður sé guð. Þolanlegra væri það þó, ef að þeir skoðuðu Krist sem mann, eins og vér gjörum, því að menn eru æfinlega barnaskap og breiskleika háðir.

Því fer svo fjærri, að hinir trúuðu bræður vorir hafi meiri rétt til þess að neita oss unitörum um nafnið 'kristinn,' að með skynsömum ástæðum getum vér einmitt sagt, að þeir séu ókristnari en vér. Og að endingu viljum vér óska þeim, að bróðurlegur kærleiki og kristileg ást komi öðruvísi fram, en með því, að hreyta frá sér sletttum á opinberum þingum til heiðarlegra kristilegra félaga, sem, eins og unitarafélagið, hefir marga ágætismenn í flokki sínum.

# *Elohim.*

## Hvort þýðir Elohim guð eða guðir?

Í ritgerð einni í "Truth Seeker" fer Morris M. Bostwich eftirfylgjandi orðum um málefni þetta.

Fyrst getur hann deilu þeirrar, er út af því hafi risið, og svo lýsir hann því yfir, að hann sé þeirrar skoðunar, að orðið ætti að þýðast í fleirtölu. Getur hann þess, að fornfræðingurinn Volney fullyrði, að Elohim þýði: guðir, og að málfræðingar allir játi það. Segir hann, að Elohim hafi verið það sama hjá Gyðingum, sem Decans hjá Egyptum, genii mánaða og pláneta hjá Persum og Chaldeum.

Hinn púnverski rithöfundur, Sanchoniathon, tekur af tvímæli öll, er hann segir, að félagar guðsins El eða Il, sem er hið sama og gríski guðinn Kronos, eða latneski guðinn Saturnus, hafi verið kallaðir Eloim eða Kronioi, og sagt, að þeir væru jafningjar Kronusar. Nú vita allir, að stafinn 'h' vantar í gríska stafrofið, og er því Eloim sama og Elohim, eftir grískum rithætti, en á arabisku Elahim, sem er fleirtala af Elah, er þýðir guð.

En hvernig stendur þá á því, að sköpun heimsins skuli tileinkuð vera guðum þessum? Það kemur af því, að fyrst táknaði himininn hjá fornmönnum þessum það svæði, eður baug himins, sem dýrahringurínn lykur um. Þegar náttúran, grösin og blómin og ávextirnir dóu á vetrum, þá skoðuðu fornmenn það sem algjörðan dauða, en á jafndægrum á vori, þá reis náttúran upp og vaknaði til nýs lífs, og fornmenn skoðuðu þetta nýja líf sem þá kom í ljós, blómanna, grasanna, jurtanna og ávaxtanna, sem verulega sköpun, og skaparar eða höfundar þessa nýja lifs, voru guðir þeir, sem ríktu í hverju merki dýrahringsins. En, eins og flestir vita, eru dýramerkin 12: hrútur, uxi, tvíburar, krabbi, ljón, meyja, vog, sporðdrekibogmaður, hafur, vínker og fiskar.

Upphafið, sem biblían talar um, ætti því að vera jafndægur vorsins, og á þeim tíma gengur sól í hrútsmerki. Sólin og hrúturinn hefja því sköpunina, og þannig verður það ljóst, hvernig á því stendur, að í biblíunni skuli vera sagt, að Elohim, guðirnir, hafi skapað, í stað Eloch eða Eliah, guð.

Enn þá ljósara verður þetta, er vér skoðum orðið Elohim málfræðislega í eintölunni. Rætur orðsins eru: al og jah. Rótin al eða

el er dregin saman úr sögninni ail, sem þýðir, að snúa upp á eða vinda, og var haft sem nafn á karldýri sauðfénaðar, af því að það var einkennilegt, að horn þeirra voru snúin. Jah þýðir: hann mun vera. Þýðingin á Aljah eða Eljah, er þá þessi: Hann mun vera með snúnum hornum, eða með öðrum orðum: Sólin verður þá í hrútsmerki, er sköpun næsta árs byrjar.

Það er mjög erfitt fyrir menn nú á dögum, ef þeir ekki kynna sér málavöxtu ítarlega, að skilja í því, hve náið samband var milli hinna fornu trúbragða og árstíðanna og breytinga þeirra, er á þeim urðu. Vér eigum mjög erfitt með að skilja í því, með hve miklum áhuga eður kvíða hinar fornu þjóðir fylgdu gangi sólar á sumrum og vetrum. Og á austurlöndum hélst þetta meira og minna við, þangað til Mahómetstrú breiddist þar út með eingyðishugmyndum sínum. Breyting hugmyndanna hafði þau áhrif, að stjörnufræðishugmyndir þær hinar guðfræðislegu, sem liggja til grundvallar fyrir biblíunni og sköpuninni, skorpnuðu saman og breyttust í eingyðistrú, og við það týndist meiningin, sem lá upphaflega í þessum skynsamlegu og ljómandi fögru frásögum, en í staðinn kom óskiljanleg og þýðingarlaus frásaga um verk og lagaboð hins grimma gyðingaguðs.

Sköpunin sem biblían segir frá, er því hvorki meira né minna en þessi hin nýja framleiðsla náttúrunnar, þessi hin nýja sköpun, sem á hverju ári fer fram í öllu ríki náttúrunnar. Vorið, þessi tími jurtanna, blómanna og ávaxtanna, gróðurtími grasanna, var gullaldartími ársins undir áhrifum sólarinnar og framleitt af henni, en í efnafræði og stjörnufræði er einkenni sólarinnar: gull.

Þá getur rithöfundur þessi um það, að hebreska orðið "Boro" hafi verið ranglega þýtt af þeim, sem lögðu það út úr hebresku á ensku, og létu það þýða: skapaði, nefnilega bjó til af engu. Það hafi aldrei átt að merkja það, heldur, að skera, höggva í sundur, skipta, og í þeirri merkingu sé það haft í Jósúa 17., 15., þar sem talað er um að fella tré.

Max Muller segir, að það sé fyrst á seinni tímum, að orðið hafi verið látið þýða: að skapa, og að þeir séu mjög fáir þýðendur gamla testamentisins, sem gjöri kröfu til þess að vita, hvernig orðin hafi verið skilin af þeim, sem þau upprunalega voru töluð til. Hann sýnir fram á það, að í sálminum 104, 30. versi, þýði orðið þetta: þú endurnýjar (yfirborð jarðar). En þetta er nú einmitt það, sem Elohim gera á vori hverju, og því ætti 1. v. í 1. bók Mós. að þýðast á

þessa leið: "Í upphafi greindu guðirnir (þegar sólin var í hrútsmerki) sumarið frá vetrinum og endurnýjuðu yfirborð jarðar."

Þessu næst er eftir gömlu þýðingunni: "Og jörðin var í eyði og tóm," en ef að rétt væri þýtt, ætti það að vera: "Á vetrum er jörðin döpur og eyðileg." Hún er blóðlituð, í hinni gömlu þýðingu þess orðs, með tilliti til litarins á fölnuðum laufum og blöðum, er orsakast af skáhalla sólargeislanna á vetrum í samanburði við á sumrum.

Næst er: "Og guðirnir sögðu: verði ljós, og það varð ljós." Þegar sólin kom í hrútsmerki á jafndægrum vorsins, þá leiddi hún fram sumarið og ljósið af vetrinum og myrkrinu. Veturinn leið, en sumarið kom.

Þetta og annað eins sannar það, sem menn hafa lengi vitað áður, að ritningin er ekki guðdómlega innblásin bók, heldur samsafn af hugmyndum þjóðanna þar eystra, og með því, að fjöldi þjóða þar voru upphaflega stjörnudýrkendur, þá eru þetta leyfar af hinum gömlu trúbrögðum þeirra, merkar leifar, er sýna oss hugsunarhátt þeirra. Hið einkennilega við þessi trúbrögð er það, að eins og hjá hinum aryönsku þjóðum, t. d. Indum, Persum og Grikkjum, eru það sólguðirnir sem einkum hafa verið dýrkaðir, og eru þær þjóðir þó mjög óskildar semetisku þjóðunum, sem Gyðingar teljast til.

Það má vitanlega blekkja fáfróða alþýðu og gera henni sjónhverfingar og segja, að þetta sé alt saman lygi um sólardýrkunina. en í ljósi vísindanna, mannfræðinnar, tungumálafræðinnar og fornfræðinnar er það ekki hægt.



# Ýmislegt.

Dr. Lymam Abbot, nafnfrægur prestur, lýsir því yfir nýlega, að hann trúi samkvæmt þroskunarkenningu Darwins. Hann trúir ekki sögunni um Adam og Evu, getur ekki melt eplið góða og efast um höggorminn. Þó er hann látinn óáreittur, og er það merki þess, að trúin er farin að sljófgast hjá hinum "rétt-trúuðu."

Prestur einn spurði nýjan safnaðarlim, hvort hann ætlaði ekki að lofast til þess, að gefa eitthvað til kyrkju sinnar.

Hinn svarar: "Ég er hræddur um, að ég geti það ekki. Ég

skulda slátraranum, sykurkaupmanninum, brauðsalanum og svo leiguna fyrir húsið sem ég bý í."

Klerkur: "Já, góðurinn minn, en ætlar þú að gleyma því, að þú skuldar guði þínum miklu meira?"

Safnaðarlimurinn: "Reyndar veit ég það, en hann rukkar mig ekki eins stíft og hinir."

Hugsunin er augsýnilega þessi: Svíktu þá en gjaltu mér, guð blessar.



## 25 nýja kaupendur

hefir DAGSBRÚN fengið á síðustu fjórum vikum, og er það ánægjulegur vottur þess, að menn kunna að meta viðleitni þá, er vér höfum sýnt, til að gjöra blaðið vel úr garði. En vér þurfum enn að fá miklu fleiri nýja kaupendur, ekki eingöngu til þess, að borga kostnaðinn við útgáfu blaðsins, heldur engu síður til þess að útbreiða skoðanir vorar,—færa rök fyrir máli voru, og vekja menn til sjálfstæðrar hugsunar um trúmálin. Vér viljum því biðja alla vini og velunnara Dagsbrúnar, að nota öll tækifæri til að leggja henni liðsyrði og útvega henni sem flesta nýja kaupendur. Hver sem útvegar oss fjóra nýja, fyrirfram borgaða kaupendur, fær einn dollar í ómakslaun, eða einn árgang af blaðinu ókeypis.

Verð Dagsbrúnar er $1.00 um árið. Sent til Íslands, fyrirfram borgað hér, kostar blaðið 50 cents árgangurinn. Á Íslandi kostar blaðið 2 krónur.

Sendið sem allra fyrst eitthvað af andvirði blaðsins til

M. PÉTURSSONAR, P. O. Box 305
Winnipeg, Man.

Gefið út af Únítarasöfnuðinum í Winnipeg.
Ritstjóri: MAGNÚS J. SKAPTASON.
538 Notre Dame Ave.
Féhirðir og afgreiðslumaður: MAGNÚS PÉTURSSON.
601 Ross Ave., Winnipeg.

HEIMSKRINGLA PRTG. & PUBL. CO.